# LJÓÐMÆLI

EPTIR

JÓHANN MAGNÚS BJARNASON



ÍSAFJÖRÐUR
KOSTNAÐARMAÐUR: SKÚLI THORODDSEN
PRENTSMIÐJA „ÞJÓÐVILJANS UNGA“
1898

Minni

hjartkæru

fóstur-dóttur,

Alice Juliet Cooper (Bjarnason),

tileinka jeg þessi kvæði.

Höf.

## Hann langar heim.

— —

Þeir veittu' honum virðing og seim,
og völdu' honum frjóvgustu lönd;
þó langar hann, langar hann heim
að lopthreinni ættjarðar-strönd.

Þeir leiða' hann í ginnandi glaum
á gleðinnar sælustu stund;
samt vakandi dreymir hann draum
um dalina' á feðranna grund.

Nei, farsæld hann finnur ei hér,
og fær ekki augnabliks-ró,
því hjartað og hugurinn er
fyrir' handan inn bárótta sjó.

Því völd honum veit ei, né seim,
né veldu' honum kornauðug lönd·

en flyt þú hann, flyt þú hann heim
að feðranna tignlegu strönd.

## Hann getur verið jafningi þinn.

Með háðbrosi horfir þú á
þinn hikandi, ferðlúna mann;
en ef til vill hefurðu' ei aðra eins sál,
né aðra eins vöðva, sem hann.

Þér þykir ei fötin hans fín —
né fallegt það snið, sem hann ber; —
en trú mér: í vetur þau veita það skjól,
sem veitt geta þín ekki þér.

Þér finnst hann svo fávís og sljór,
því fjölmálgur er hann ei nú;
en vera má þó, að hann viti eins glöggt,
hvað vísindi eru, sem þú.

Þó fátækur sé hann og fár,
og fallið sé ryk á hans lín,

þá getur hans sál verið göfug og hrein,
já, göfugri jafn vel, en þín.

Með háðbrosi horfir þú á
hinn hikandi, ferðlúna mann:
þó stóðstu þar eitt sinn, er stendur hann nú,
eins stúrinn og klæddur, sem hann.

## Góður hver genginn.

Hann var, sem menn segja, „svo ósköp auðnu-sljór“,
og átti' ei marga vini, sem kann ske betur fór;
og það var æ hin myrka hlið lífsins, sem hann sá,
er svörtum skugga kastaði veginn hans á.

Menn sýndu honum fjandskap, menn sungu um hann níð,
og sögðu' hann væri dári, sem hæddi frjálsan lýð.
Og köldu hatursbrosi hann mætti á margri vör,
sem marg-opt er eins banvænt og eitur-roðinn hjör.

En þegar hann var andaður, heyrðist annað hljóð;
þá harmaði hann þjóðin, og flutti trega-ljóð.

Og nafn hans var í marmara gullnum stöfum greypt,
en gleymskunnar í djúpið var brestunum hans steypt.

Því gremja og öfund hverfur við grafarinnar dyr, —
að göllum hins látna ei nokkur maður spyr; —
fyrst skugginn hans dramb vort ei skerða framar má,
þá skrifum vér lof um hann marmarann á.

## Fátæklingurinn.

Svangur um strætið hinn fátæki fer,
hans föt eru slitin og bætt;
alnboga-skotum og óbliðu fólks
allstaðar hefur hann mætt.

Og það, sem var eitt sinni aðstoðin hans,
er allt saman komið í hvarf.
Hann vill ei, og getur ei beðið um brauð;
hann biður nú að eins um starf.

En við hirðum ei grand, þó hann hungraður sé,
því hjörtu' okkar eru svo köld;

„þú ert ekki nýtur“, er okkar svar,
„og eymd þín er letinnar gjöld“.

„Og mannkosti þína við metum ei neins;
— þú mátt því ei búast við gjöf —
við getum, en viljum ei veita þér starf,
en við skulum ætla þér gröf“.

Og aumingja þessum vér ýtum á dyr,
og eigum ei tal við hann meir.
Svo fer 'hann stúrinn og hungraður heim,
og hallar sér út af og deyr.

* * *

Vér trúum á sjálfa' oss, og tölum svo djarft,
þá tekjur vér höfum og völd,
en hjörtu vor finna þá opt ekki til,
þau eru, þau eru svo köld.

## Vér róum upp strauminn.

Vér róum, og róum upp strauminn,
þó rekur oss stöðugt til baka,

og erum að verða svo veikir;
en viljum ei eptir því taka.

Vér róum, og róum upp strauminn,
og reynum við hina að þreyta,
en verðum þó einatt á eptir,
því aflinu' ei kunnum að beita.

Vér róum upp stríðasta strauminn,
á styrk vorn og þolgæði trúum;
en sífellt til baka vér berumst,
því bökunum saman vér snúum.

Vér róum, og stríðum við strauminn,
en straumurinn knýr oss til baka,
því einn togar æ móti öðrum,
þó eptir því viljum ei taka.

---

## Imprómptu.

Vér förum að verða frægir,
því framfara einkennið berum,

og þykjumst mennirnir mestir,
sem minnstir og veikastir erum.

Mælskumenn erum vér allir,
um alla hluti vér skröfum;
en eitt er þó öllu meira,
að allir vér skáldgáfu höfum.

Gentlemen: vel gengur vaggan,
hún veltur á báðar hliðar;
svo verum í vöggunni kyrrir,
og vitum, hvort ekki miðar.

---

## Mokarinn.

Hann lifir, til að moka, og mokar,
og mokar, til þess að lifa;
en erfiðið þyngist og þyngist,
og þungt gjörist rekunni' að bifa.

Því lengur og meir sem hann mokar,
æ minni þeir laun honum veita;

og eptir því sem hann eldist
hann afli má harðara beita.

Þó hálf-dofnar hendurnar kreppist,
og herðarnar dofni af lúa,
þá skal hann samt moka og moka,
og moldinni saman hrúga.

Þó taugar hans togni og hnýti,
og trautt hann á fótunum standi,
skal hann samt moka og moka
mold og leðju og sandi.

Hann auðkýfings-pyngjuna eflir,
en örbyrgð má sjálfur þola;
fyrir' svitann, blandaðan blóði,
af borðum hans fær hann mola.

En hví skal hann moka og moka
mold og leðju og sandi?
Því hann er fjölskyldu-faðir,
framandi' í ókunnu landi!

Og hann mokar, og mokar, og mokar

mold og leðju og sandi,
unz örmagna augum hann lokar,
og andast í framandi landi!

## Líkfarar-söngur.

Hefjum upp kistuna hægt!
hefjum vorn líkfarar-söng!
Gangan er þung fram að grafar-þró,
þó gatan sé ekki svo löng.

Svo höldum fram,
hægt og seint,
en höfum ei neinstaðar töf.
Svo fram og fram!
Förum beint
fram, og fram að gröf.

Göngum í fylkingu fram,
með fánann í hálfri stöng.
Klukkan í portinu drynji dimmt;
dimm séu slögin og löng.

Svo höldum fram, o. s. frv.

Fylgist hér tveir og tveir að.
En tölum ei — allra sízt hátt.
Á hergöngu þessari höldum svo „takt“
við hjartnanna titrandi slátt.

Svo höldum fram, o. s. frv.

Berum, af bróðurlegri' ást,
beinin hins andaða manns;
nú fylgjum vér honum í síðasta sinn,
að síðasta hvíldar-beð hans.

Svo höldum fram, o. s. frv.

Allir, sem unnu' honum heitt, —
sem ástar hans nutu svo þrátt —
komi þeir hingað, og kveðji hann nú,
því köld hylur gröfin hann brátt.

Svo höldum fram, o. s. frv.

Komi þér, komi þér með,
sem kaldan hug báruð til hans;
og gleymið því liðna — en gangið með ró
að gröfinni' 'ins andaða manns.

Svo höldum fram, o. s. frv.

Hljótt er í dauðans höll,
og hljóð er sorgin — en ströng;
og gangan er þung fram að grafar-þró,
þó gatan sé ekki svo löng.

Svo höldum fram
hægt og seint,
en höfum ei neinstaðar töf.
Svo fram, og fram!
Förum beint
fram, og fram að gröf.

## Íslenzki sveinninn í sjúkrahúsinu.

Aumingja sveinninn —
íslenzki sveinninn —
í sjúklinga-sal hann lá,
svo fyrirtaks fagur —
þó fölur og magur —
með vonarsvip enninu á.

Þar þekkti hann engan,
og engan hann skildi;

og enginn gat sagt eða
sýnt, hvað hann vildi.
Hans vitjaði' ei nokkur,
með vinarhönd mjúka,
af elsku sem hagræddi
höfðinu sjúka.

Hann átti' ekki systur,
og ei átti' hann bróður,
fjær voru frændur,
og fjörvana móðir;
en átakanlegast af öllu var þó:
að iðjulaus sat faðirinn í vindrykkju-kró.

* * *

Feður og mæður,
frændur og bræður
vitjuðu vina,
sem voru þar líðandi,
og hughreystu hina,
sem hryggvir og kvíðandi,
stynjandi, stríðandi
störðu á dauðann,
og djúpið í dimmunni —
á endirinn auðan!

Aumingja sveininn —
íslenzka sveininn --
ei komu menn til að sjá.
En engill hins síðasta
svefns — og hins blíðasta —
sænginni staðnæmdist hjá.

---

## Hún var íslenzk.

Hún þerraði tárin af þrútnum hvörmum,
en allsendis árangurslaust,
því óðara viðstöðulaust
þau knúðust fram af kveljandi hörmum.
Og efandi, einmana,
útskúfuð, févana
vafði hún barnið sitt veikum örmum.

Og bakkanum bröttum á,
þars brunar fram Rauðá grá,
um svartnættið sat hún.
Enn var hún ung og fríð,

á æskunnar beztu tið,
sem mjög litils mat hún.

Hver hafði hryggt hana,
svo harðlega styggt hana,
með barnið, sem bar hún?
Naut hún þá engra að,
og átti' 'ún ei samastað?
Nei; vinarlaus var hún.

Hví var hún vinarlaus,
vesæl og hælislaus
á æskunnar árum?
Kom engin kærleiks-sál,
kærandi hennar mál,
er sat hún með titrandi tárum?

* * *

Hún var íslenzk, alin upp í sveit,
þars eittsinn glöð hún kindum hélt á beit.
Og vestur kom hún, einhvern ágúst-dag,
með alíslenzkum vinnukonu-brag.
Fljótt hún hreppti vinnukonu-verk
á veitingasal — þars freistingin er sterk —;

og undra fljótt hún komst í kynni við
kempu, sem bar fágað sverð á hlið,
og spora á hælum, rauðum klæðum klæddur,
og kurteisi og lipurleika gæddur.

Aldrei hafði' hún áður litið mann,
á Íslandi, svo göfugan, sem hann.
Kynning þeirra kveykti ástarbál,
og kærleikurinn tengdi sál við sál.
Sælli framtíð opt hann henni hét,
og hæverskunnar-bros ei vanta lét.
Hún gleymdi, á ári, að ólst hún upp í sveit;
og íslenzkt mál og snið hún fyrirleit;
því frægð ei lítil fannst henni það vera,
ef frúar-titil enskan mætti 'hún bera.

* * *

En tímarnir breyttust, og tryggðin var rofin,
traustið var horfið, og ástin var dofin.
Og svo hljómuðu orðin,
svo hátt og svo bert:
„Jeg get ekki átt þig,
því íslenzk þú ert!“

---

*

## Íslenzkur sögunarkarl í Vesturheimi.

Settu þig niður á saghestinn minn, hann svíkur þig, vona jeg, ei,
því þó hann sé lélegur, lagsmaður góður, þá lýist hann ekki, það — grey.
Það er jeg, sem að þreytist, og þola verð; en jeg þoli nú samt ekki neitt,
því kraptur er mér úr kögglum nú, og karlmennsku-fjörið er eytt.

Í sjötíu ár hef jeg seiglazt fram — í sjötíu ár og fimm —,
og mörg hafa verið mild og björt, — en miklu fleiri þó dimm;
en svörtust hafa þau verið víst, síðan viltist eg hér á land,
því hvað hef jeg borið úr býtum hér, nema barasta eymd? — Ekki grand!

Jeg hef ráfað með sögina' og saghestinn minn, eins og sauður um graslausan mó;
jeg hef læðzt, eins og þjófur, og skimað og skygnzt inn í skot hvert og afvikna kró,

til að vita, hvort sæi jeg stokk eða staur, sem stýfa jeg
mætti í tvennt,
— en vitaskuld fyrir þóknun þó, sem þessa lands börn
kalla cent.

Í brennandi hitanum brenni eg hjó, svo blóð út með
svitanum rann,
en í hörkum á vetrum á fótum eg fraus, þegar — fá-
klæddur — hálfur eg brann.

Skjálfandi hendi jeg drep æ á dyr, þar sem dálítið brenni'
er að sjá,
og svo byrjar jafnan sú þraut, sem er þyngst: að þylja
mín bænarorð fá.
Jeg kann ekki enskuna, kunningi sæll, en „kott vúdd
sör" er mitt hróp;
svo hristi jeg sögina', eins hart og jeg get, svo þeir halda
mig argasta glóp.
Og ef þeir nú skilja, hvað á jeg við, er eptir að semja
um laun;
ef „dollar" jeg segi, að „kott vonn korð", er sem
kenni þeir óþverra daun:

Þeir blása og púa, og banda mér frá, unz boð mitt á
við þeirra skap,
því þeir verða að græða, þeir miklu menn, en mitt er
að bíða tap.

Og þrátt hef jeg orðið að etja kapp við ítalskan þver-
úðar-durt,
sem býður sig fyrir svo lítil laun, að jeg labba verð
jafnan á burt.
Og enginn vill mæla mér orð í vil — nei, enginn vill
sýna mér stoð,
því hærurnar veita ei hagnað neinn, en heldur hið lægsta
boð.

En þó hef jeg hitt fyrir hjartagott fólk, — en heldur
fátt er það samt —
sem boðið mér hefur brauð og smjör, — að biðja mér
ekki er tamt.
Sko! frakkann þann arna gaf frúin mér, sem fremst þarna
í strætinu býr,
af manninum hennar jeg meina' að hann sé, því mjög er
hann þéttur og hlýr.

Og skenkjarinn hérna mér skó þessa gaf — en það skrapp
fram á varir hans glott,
því fyrirtaks gapi og æringi' hann er, en undur er hjart-
að hans gott.

Svo ei má jeg segja, að enginn sé til, sem aumkvar
mín báglegu kjör;
en bágt er að þiggja', eins og betlikarl, sem bráðum er
lagztur í kör.
Já, þungt er það, segi' jeg, að þiggja gjöf, eins og þurf-
andi mannfélags-hrak,
fyrir þann, sem að eittsinn svo efnaður var, að öðrum
lét skýla sitt þak.

Þú spyr: hvort að engan jeg eigi hér vin, eða ærlegan
vandamann neinn.
Nei, frá eru vinir og frændur og börn, svo fáráður stend
jeg hér einn.

Jeg kom hingað vestur með Katrínu og Björg, en Kata
mín veiktist og dó;
hún þoldi' ekki loptið, svo þurrt og svo kalt — en þæg-
indi skorti og ró;

í þvottahúsinu' hún þreyttist um of, því þreklítil var
hún og smá,
og betur hneigð fyrir bóklega mennt, — sem beinlínis
var hennar þrá.
Jeg unni' henni heitast, því yngst hún var af öllum
börnunum fimm,
og væri' hún á lífi, þá væru mín kjör eins væg og þau
nú eru grimm.

Björg mín var ætíð svo fljótráð og fröm, en fríðleik hún
ljómandi bar.
Og tælandi glaumurinn ginnti' hana fljótt, svo hún
gleymdi, hvers dóttir hún var.
Svo tryllti' hana einn þessi tálfríði sveinn, og tældi'
hana langt á burt;
já, hann stal henni reyndar, sá stásslegi gaur. — Þau
struku, jeg veit ekki hvurt.

Átti jeg sonu? Svo átti jeg víst. — Já, enn þá er
minningin skýr.
Og duglegir menn voru drengirnir mínir — drengirnir
mínir þrír.

Menn sögðu, að Björn væri sterkari', en Steinn, sem sterkari mörgum þó var,
en Rafn hélt þeim báðum, ef rann þeim í skap, svo ramefldur var hann og snar.
Þá langaði snemma að leita til hafs, — á landi þeir festu' ekki ró —
Þeir elskuðu volkið, og veðrin hörð, og voru því jafnan á sjó.
Og svakaleg mörg þeirra sjóferðin var; en hin síðasta varð mér of dýr;
Þeir drukknuðu veslings drengirnir mínir — drengirnir mínir þrír.

Jeg átt hefi mikið — og opt verið sæll — en allt er það horfið og misst.
Hér hými' eg, sem stormbarin, afgömul eik, sem engan á laufgaðan kvist.

---

## Litla stúlkan.

Segðu mér söguna aptur — söguna þá í gær —
um litlu stúlkuna, með ljúfu augun og ljósu flétturnar tvær.

Var hún ekki fædd úti' á Íslandi, og alin þar upp á sveit,
og send hingað vestur á sveitarinnar fé — með saknaðartárin heit?
Hún var þrettán ára, 'eða þar um bil. — Jú, það voru þín orð.
Þú sagðir, að sárt hefði' 'ún grátið, er settu þeir hana um borð;
Og þá gusurnar gengu' yfir skipið, sem gnötraði og veltist á hlið,
þá bað hún svo vel, og þá bað hún svo heitt: „æ blessaðir snúið þið við!"
Aumingja barn! Það var ósköp sárt! En átakanlegra var hitt,
þegar vestur hún kom til Vinnipeg, og vildi sjá skyldfólkið sitt,
að fólkið hennar var farið — hún fann það ekki þar.
Þú sagðir, að þér hefði runnið til rifja, hve raunaleg hún var
í innflyténda-salnum, er sat hún svo sakleysisleg og hljóð,
og reyndi að hylja með hyrnunni sinni' 'ið heita táraflóð.

Var kyn þó væri' hún döpur? Og víst var það nokkuð hart,
að segja við 'ana: „Hættu að hrína! — Hestarnir koma nú snart. —
Með karlinum keyrirðu út á land, og kemst þar í góða vist.

Skældu' ekki meira! — Skárr' er það! — Jeg skal nú
verða bist!"

Svo fór hún einhverja langa leið út á land. — Eða var
ekki svo?
Og fremur gott var fólkið við hana fyrstu dagana tvo.
En svo þrutu gæðin meir og meir; og margsinnis var
það hún grét,
þá kerlingin kreppti hnefann, og karlhrófið fólslega lét.
Þau börðu' hana, trúi' jeg, svo bólgin hún var, og blæddi'
undan svipunni þrátt;
þau létu' hana vinna, þó væri hún sjúk — já, vinna allt
stórt og smátt.
Henni leiddist svo mjög; hana langaði heim. Já, láttu
mig heyra um það,
þegar hún tók til þess barnslega bragðs, að búast um
nótt af stað.
Hún komst út um gluggann með kistilinn sinn; — en
koldimm var nóttin og löng —
svo hljóp 'hún til skógar, eins hart og 'hún gat. — Hún
hræddist ei myrkviðar-göng.

Hún þekkti' enga leið, eins og vonlegt var. Hún viltist.
Hún missti þrótt.

Og hver getur sagt, hvert hún lenti, eða hvað hún leið
þá nótt?
En líklegast hefur hún lagt sig til svefns, þá lúin hún
orðin var,
og ef til vill aldrei vaknað — já, andast í skóginum þar.
Já, hver getur sagt, hvaða þrautir hún leið, eða hvernig
hún lífinu sleit?
Opt hefur verið að því spurt, en enginn maður það veit.

Æ segðu mér söguna aptur — söguna þá í gær —
um litlu stúlkuna, með ljúfu augun og ljósu flétturnar tvær.

## Grímur frá Grund.

Austan um haf kom hann Grímur frá Grund;
þeir gáfu' honum land út við Parry-sund.
Og þangað um haustið með föng sín hann fór,
þá freðin var jörð og kominn var snjór.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þreklegri sýndist á velli, en hann;
því sterkur var hann og stór.

Hann reisti sér kot, hann ruddi sinn skóg,
og ræktaði garð, þegar leysti snjó;
hann girti sitt land, hann bjó sér braut,
og breytti í engi sérhverri laut.
En enskir sögðu, að engan mann
ötulli hefðu þeir séð, en hann.
Og heiðurs-orðstýr hann hlaut.

Og svo liðu árin, að Grímur frá Grund
varð gildur bóndi við Parry-sund.
Hann ræktaði garðinn, og ruddi sinn skóg,
hann reri til fiskjar, — og söng og hló.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þvílíka atorku sýndi og hann.
— Að laglegu búi hann bjó.

En svo kom þar fár í bæ og borg,
sem breiddi' yfir héraðið trega og sorg;
það kom og til Gríms — í kotið hans inn —
Svo konuna missti' hann og drenginn sinn.
En enskir sögðust ei séð hafa mann,
er söknuður beygt hefði meir, en hann,
því tíðum var tárvot hans kinn.

Í garðinum tók hann grafir tvær,
með „gleymdu-mér-ei“ hann skreytti þær.
Er sól rann til viðar hann settist þar,
og sár var sá harmur, er hjartað hans bar.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þögulli væri og gætnari', en hann.
Því varkár maður hann var.

Og grannar hans buðu' honum betri kjör, –
þeir buðu' honum þangað, sem meira var fjör –
þá benti hann grafirnar grænar á,
og gat þess, að seint mundi' hann hverfa þeim frá.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þolmeiri og tryggari væri, en hann;
þeir vel kváðust vita hans þrá.

Og svo liðu árin, að Grímur frá Grund
varð grár af hærum við Parry-sund.
Hann reri til fiskjar, hann ruddi sinn skóg,
og ræktaði garð, þegar leysti snjó.
En enskir sögðust ei séð hafa mann,
um sextugt, með hár eins hvítt og hann.
— Einn sínu búi hann bjó.

En nú eru í garðinum grafir þrjár,
þar grænkar á sumrum víðir smár.
Og enn stendur kotið við lítinn lund
hjá læk, sem að rennur í Parry-sund.
Og enskir segjast ei muna mann,
sem meiri staðfestu bar en hann,
— hann íslenzki Grímur frá Grund.

## Smaladrengurinn.

Það þyrlast upp úfin skruggu-ský
yfir skógarins grænu rönd,
og logn-aldan kveður svo kaldranaleg
í kyrrðinni' út með strönd.
En gusturinn þýtur í toppum á trjám,
svo titrar hvert lauf á grein;
og út úr myrkviðar-fylgsnum flyzt
svo fárlegt eymdar-vein.

Það heyrist samt ekki til kýr-klukknanna,
þó komið sé undir nótt.
En verði' ekki mjólkað í tæka tíð,
þá tautar húsfreyjan ljótt;

og fari' ekki smalinn strax á stað,
  mun stafa' af því hryggð og tár;
— eða komi hann aptur, en kýrnar ei,
  þá kemur til vöndurinn sár.

Hver hirðir um hamingjulítinn
  og huglausan smalapilt,
tólf vetra gamlan, sem engan á að?
  — hver ærist, þó hann fari vilt?
Vill nokkur vægja þeim vesaling,
  þegar veikur og kvíðinn hann er?
Er nokkur, sem reynir að ráða bót
  á þeim raunum, sem hjartað hans ber?

Hann má ekki kvarta', hann er munaðarlaus,
  og marklaust allt hans hjal;
og því, eins og rakki', er hann rekinn á stað
  út í rökkrið í myrkviðar-sal.
Svo skellur á veðrið, með skruggu-gný
  og skaðræðis eldinga-flug,
með steypiregn og storm, sem vinnur
  á sterkustu eikunum bug.

* * *

Arsólar-geislarnir gylla
ina grænu skógarins rönd,
og sogandi logn-aldan suðar
við sandinn inn við strönd;
hjá hliðinu glamrar i kýr-klukkunum,
og kátt er um skógar-geim;
en vesalings smalinn, sem engan á að,
er enn ekki kominn heim.

### Húðar-klárinn.

Veslingur, ill var þín æfi,
og opt hafa högg dunið á þér;
en þrautin er búin, því þrællinn
þeytt hefur svipunni frá sér.

Hér liggurðu lúinn og dapur,
í lungunum heyri' eg að sýður;
í leggina bæklaða, bólgna,
og blóðugu kaunin þig svíður.

Þig svíður í svipufórin,

því samvizkulaust varstu barinn;
og út-taugaður nú ertu,
og allstaðar sár og marinn.

Hann húsbóndi þinn var þér harður,
— hjartalaus níðingur var 'ann —
á meðferð á mállausum þjóni
hið minnsta skyn ekki bar 'ann.

Hann lét þig opt veikan vinna,
já, vinna jafnt nætur, sem daga;
í hitanum lét hann þig hlaupa,
og hungraðan kerruna draga.

Þó tækirðu' á öllu afli,
og öllu þolgæði og vilja,
þá barði' 'ann þig; bólginn af reiði
bæn þína vildi' hann ei skilja.

Í hörkunum hríðskalfstu úti,
hungraður, lúinn og marinn,
meðan sig varmennið vermdi
í veitingasalnum við arinn.

Veslingur, köld voru kjör þín,
— kjör þau, að líða og þegja;
en nú áttu ekkert eptir
annað, en barasta' að deyja.

---

## Gröfin við veginn.

I.

Við veginn þarna' er leiði lágt,
og lýður um það skeytir fátt;
þar þroskast rós, og þistill hár.
Og börnin aldrei blómstrum strá,
né blómsveig leggja gröf þá á,
og aldrei féll þar tregatár.

Hinn gæfi sveinn þar grafinn var —
þeir grófu' 'ann, eins og fannst hann þar.
Þar þroskast rós og þistill hár.
Þeir lögðu stein und höfuð hans,
og hófu söng að venju lanz,
en enginn felldi tregatár.

Hann átti' ei vini, sveinninn sá,

*

og sínum mátti' ei vera hjá,
 því víða þroskast þistill hár.
Og fólkið sagði': „hann svalt í hel“,
því sögu hans það þekkti vel,
 þó enginn felldi tregatár.

Hans ólán var: hann orkti ljóð,
sem engum manni þóttu góð.
 En fáum eru kvæði kær.
Og fólkið sagði: „Drottinn dýr!
æ drengur sá var aldrei skír,
 og loksins varð hann alveg ær“.

Og fólkið sagði: „hann flæktist burt;
hann flúði — enginn vissi hvurt“.
 — En víða þróast þistill hár —
og stundum heyrðist stuna löng,
þá stormur fór um skógar-göng.
 — En enginn felldi tregatár.

Hann fannst, þars eikin gnæfir grá;
þeir grófu' 'ann þarna, sem hann lá.
 Þar þroskast rós og þistill hár

Á litlu blaði', er lá á storð,
þeir lásu hans 'in síðstu orð.
En enginn felldi tregatár.

II.

„Þú, fuglinn smár, sem flýgur víða um storð,
æ festu' í huga mín hin síðstu orð!
Eg er þreyttur — þrái hinnstu hvíld.

Ó, greni-skógur, grænn og ógna-hár!
æ, gröf mér vertu, þegar jeg er nár.
Jeg er þreyttur — þrái grafar-kyrrð.

Ó, robin kær, — hve rauð er bringan þín! —
æ róta laufi o'ná beinin mín!
Jeg er þreyttur — þrái hvíld og frið.

Ó, næturgali, kveð mér sætan söng,
svo sofi' eg fast, og hvíldin verði löng.
Jeg er þreyttur — þrái langa værð.

Friði meiður! fell þú daggar-tár

á foldu þar, sem ligg jeg kaldur nár.
Jeg er þreyttur — þrái helga ró.

Jeg bið þig, rós, að blómgast nærri mér,
því blómi' ei neinu unni jeg, sem þér.
Jeg er þreyttur — þrái langa hvíld.

Lækur tær, sem líður fram um sveit,
lát ei nokkurn vita um þennan reit!
Jeg er þreyttur — þrái að hvílast hér.

Þú fuglinn smár, sem flýgur víða um storð,
flyt þú engum mín hin síðstu orð!
Jeg er þreyttur — þrái hinnstu hvíld".

## Við gluggann.

I.

Hún sat við gluggann, svo sæl og ung,
og söng við brúðuna ljóð.
Hún vissi' ei, hve mannlífsins þraut er þung,
og þreytandi ævinnar slóð.

En kvæðið, er söng hún, var sorgar-mál
um sviknar vonir, fals og tál.

Og röddin var inndæl, og lagið var létt,
og lipurt söng hún og hátt;
en hún skildi' ekki meiningu málsins rétt,
svo mærinnar hjarta var kátt.
En löngu síðar það sorgar-mál
í sál hennar kveikti gremju-bál.

II.

Og mörgum sumrum síðar
við sama gluggann hún stóð;
og blómlegir voru' hennar vangar,
og varirnar rauðar, sem blóð.

En ákafleg eptirvænting
í augunum djúpu bjó;
og vonandi leit hún á veginn —
á veginn, sem lá út í skóg.

Því hann hafði heitið að koma,
— hann, sem hún fríðastan leit —

sem lofað því hafði svo löngum,
að láta' ekki bregðast sín heit.

En kaldur leið dagur að kvöldi,
og kvöldið varð síðan að nótt;
en eptir þeim vegi kom enginn;
og allt var svo dapurt og hljótt.

Og ekkert hún í því gat skilið,
að unnustans heitstrenging brást. —
En nokkru síðar hún söng um
hans svik, og hans kólnaða ást.

III.

Við sama gluggann hún síðar stóð,
með sorgina' á enninu bjarta;
af baráttu lífsins svo mædd og svo móð,
með margstungið, blæðandi hjarta.

Hún kvatt hafði einasta soninn sinn,
svo sorgfullt var hjartað og kviðið,
hún horfði' 'honum eptir, með harm á kinn,
því hann var að fara' út í stríðið.

Hún horfði, unz leit hún sinn hjartkæra son
þar hverfa' inni myrkviðinn gráan.
Svo fannst henni glæðast sú friðandi von,
að fá mundi' 'ún aptur að sjá 'ann.

En ei kom hann heim frá þeim orustu-stað,
svo aptur hún fékk ekki kysst 'ann.
Og aldrei þeir færðu' henni fréttir um það,
hve fljótt, eða hvernig hún missti' 'ann.

IV.

Og aptur sat hún þar ein,
með ellinnar silfruðu för,
með lífsreynslu-mótið — svo makalaust skýrt —
og mæðunnar þétt settu ör.

Nú söng hún ekki um sorg,
né söng hún gleðinnar óð;
hún mændi' ekki lengur á leiðina fram —
hún leit yfir farna slóð.

Og lífsins sorgarleik,
um langvinn sjötíu ár,

svo fast hafði' hún sókt, að hún átti nú ei
eitt einasta bros, eða tár.

Úr býtum við leiksins lok
hún loksins bar ekki neitt;
og allt, sem hún þráði, var eilíf hvíld,
því orðin hún var svo þreytt.

---

## Blaðadrengurinn.

Blaða-sveinninn með flýti fer,
því fjörugur piltur er hann:
og ljúfum augum, sem lýsa von,
hann lítur á sérhvern mann.

En hann býður ei öllum blöðin sín,
um borgina þegar hann fer;
hann ávarpar einungis menntaða menn,
því mannþekkjari hann er.

Hann kærir sig lítið, þó kaldlyndur skrýll

kveði' um hann leiðinda hnjóð;
hann hugsar: „Jeg virði ei villinga svars,
jeg vinn fyrir siðaða þjóð".

Þó úti sé stormur, og steypiregn,
og strætin forug og sleip,
þá sést hann jafnan á fleygingsferð,
því fastur er hann við sinn keip.

Og kátari er hann, en konungsson,
þá keypt eru blöðin hans öll;
hann blíðlega syngur þá barnalag,
með barnslegri rödd, sem er snjöll.

Blaðadrengnum jeg unna skal æ,
því ötull piltur er hann;
og ljúfum augum, sem lýsa von,
hann lítur á sérhvern mann.

---

## Aldna eikin.

Jeg stóð úti' í skógi hjá aldinni eik,

sem orðin var skrautlaus, og visin og bleik,
og svipt var gjörlega sérhverri grein;
jeg sá, að hún skalf, þegar vindurinn hvein.

En þó hennar misst væri blómskrúð og bar,
af björkunum öllum hún tignlegust var.
Í anda jeg sá hennar ágæta skraut,
sem allt fyrir löngu var horfið á braut.

Því yppurstu litirnir fölna æ fljótt,
og fjörleiki æskunnar hverfur svo skjótt;
en glögglega má þó á sérhverju sjá
þann svipinn, er eitt sinni hvíldi því á.

## Móðir mín.

Þá vissi' eg fyrst, hvað tregi er og tár,
sem tungu heptir, — brjósti veitir sár —
er flutt mér var sú feigðar-saga hörð,
að framar ei þig sæi' eg hér á jörð;
er flutt mér var hin sára sorgar-fregn,
— er sálu mína og hjarta nísti' í gegn —

að þú hefðir háð þitt hinnsta stríð
svo harla fjarri þeim, sem þú varst blíð.

Jeg veit, hver var þín hinnsta hjartans þrá,
hugljúf móðir, — börnin þín að sjá;
jeg veit þau orð, er síðast sagðir þú,
sem sorgleg mér í eyrum hljóma nú.

Nú er mér ljóst, hvað átt jeg hefi bezt,
hver unni mér, og hjálpaði mér mest,
sem stríddi, svo jeg fengi ró og frið,
og fúsast veitti mér í þrautum lið.

Það var enginn, enginn nema þú,
elsku móðir — glöggt jeg sé það nú.
Nú sé jeg fyrst, að vinafár eg er,
því enginn móður-elsku til mín ber.

Þér þakka' eg, móðir, fyrir trú og tryggð;
á traustum grunni var þín hugsun byggð.
Þú stríddir vel, unz stríðið endað var,
og starf þitt vott um mannkærleika bar.

Hvíl þig, móðir, hvíl þig, þú varst þreytt;

þinni hvíld ei raskar framar neitt.
Á þína gröf, um mörg ókomin ár,
ótal munu falla þakkar-tár.

---

## Systir mín.

Skrúði klæddur er skógurinn, og skrauti þakin grund;
en mér finnst, sem það beri allt fölvari svip, en í fyrra
í þetta mund,
því dagarnir virðast mér dimmari nú, og daufari birtan
af sól,
og skuggarnir lengri, sem líða með hægð yfir lautir
grænar og hól.
Í golunni heyrist mér grátstuna löng, er glugganum þýt-
ur hún hjá;
og kvakið fuglanna kemur til mín, eins og kveinstafir,
runnanum frá.

Já, systir mín elskuleg, sorgin er ströng, er sverfur að
hjartanu' í mér;
svo lífið mér verður, sem langvinnt stríð, unz loks mig
að gröfinni ber.

Jeg hafði það áður i huga mér leitt — og huggun í
raun var það þá —
að ei mundi' eg, systir mín, sjá þér á bak; en sú varð
þó raunin á.

Mér hljómaði þungt, eins og þrumunnar-gnýr um þögula
árdags stund
sú fregnin, að — þegar fegurst var tíð — þinn fest hefð-
ir síðasta blund.

Þeir fluttu mér margir þá fregnina heim, og fluttu' hana
aptur á ný,
eins og þeir héldu jeg hefði' ekki til neitt hjarta brjóstinu í:
Því hjörtu margra' eru harðari, en steinn, og þeir halda
það sé ekki neitt,
að missa einasta systkynið sitt, og að sorgin mann geti'
ekki þreytt;
þeim finnst það nægi, að falli um kinn fáein hryggðar-tár,
því glaumurinn, tíminn og gleymskan græði til fulls
öll sár;
þeir halda, að bættur sé harmurinn, þá horfið er tár af kinn;
og þeir vita' ekki, að til eru svíðandi sár, er sífellt blæða inn.

Já, fólkið heldur jeg harmi þig ei, og hress sé og kát
mín lund,
af því það sér ei mín saknaðar-tár, og svíðandi, blæðandi
und.
En sífellt blæðir inn sárinu því, er sorgin í fyrra mér bjó,
og tíminn og glaumurinn græðir það ei -- en gröfin og
eilíf ró.

Systir mín elskuleg, systir mín góð, nú svifin á burt er
þín önd;
í svarta nökkvan þú settist svo ung, og sigldir að ó-
kunnri strönd —
að ókunnu ströndinni ómlausu, sem enginn kemur frá,
en sem allir flytjast, fyr eða síðar, fölir yfir á.

Þitt lífs-stríð var ekki langvinnt, því leiðin var svo stutt;
en baráttu góðri þú barðist, og braut þér hafðirðu rutt.
Og lífs-starf þitt var ei lítið, því þér lét svo vel að sá
hreinustu frækornum fróðleiks í falslausu hjörtun smá.
Þú unnir því frjálsa og fagra, en fyrirleizt smjaður og tál,
því þú varst svo góð, og svo glöð í lund, og göfug og
hrein þín sál.

Jeg lít nú í anda' yfir liðin ár — hina liðnu bernskunnar tíð.
Í huga mér kemur svo harla margt um horfið yndi og stríð.
Og myndirnar eru svo margar, og mörg þau atvikin smá,
sem líða nú ljúft mér í huga, þeim liðnu dögunum frá.
Í minni mér ávallt er brosið þitt blítt, og blíðlegu augun þín,
og ljóslega finnst mér jeg enn geta greint þitt glaðlega tillit til mín.
Og mér heyrist enn, að þú mælir — mælir svo blítt og hljótt:
„Syrg þú ei, bróðir minn, syrg þú mig ei — við sjáustum aptur skjótt“.

En, systir mín elskuleg, sorgin er ströng, er sverfur að hjartanu' í mér.
Mitt bezta' og mitt fegursta' er farið, en fram undan svartnættið er.

Jeg trúi, að síðar við sjáumst; og sannfæring er það mín,
að óm þessa andvarps míns beri yfir á landið til þín.

†

## Gestur Pálsson.

Hann hallaði sér útaf, því höfuðið var þreytt,
en hjartað var að stöðvast, og útlit hans var breytt.
Hann þráði að mega hvílast um langa, langa stund;
svo lét hann aptur augun, og festi hinnsta blund.

Og þreyttur var hann orðinn, og þráði að finna ró,
— já, þreyttur af „volki á“ æstum „mannlífs-sjó“.
Og samt hafði’ ekki ellin greypt rúnir enni’ hans á,
því enn var hann fríður og blómlegur að sjá.

Þeir eru má ske engir, sem vissu, hvað það var,
sem valdið hafði sorginni’ er hjartað hans bar,
því engum manni sagði’ hann sitt innsta leyndar-mál,
sem, ef til vill, hvíldi svo þungt á hans sál.

Hann var má ske veiktur af harðúð heims og brygð,
og hamingjunnar hverfleik, og lausri vina-tryggð;
og fannst þá með köflum, hann engan eiga að,
og ekkert á að treysta — né nokkurn samastað.

Hjartað hans var viðkvæmt, og háfleyg var hans sál,
og hrífandi' og fjörugt hans ljóða- og sögu-mál.
Og lengi mun hans skáldskapur lifa hjá hans þjóð,
sem lífgandi geisli á bókmenntanna-slóð.

Dýrmæta gimsteina gaf hann sinni þjóð,
sem glatast munu trauðla í aldanna-flóð;
en allt, sem hjá fólkinu fékk hann að gjöf,
var fáskrúðug hvíla í þögulli gröf.

---

†

## Níels M. Lambertsen.

Og hann kom fram á mannlífsins myrka svið,
eins og mannvinur, læknandi sár;
og það var hans hæzta' og hans helgasta mið,
unz hné hann að gröfinni nár.

En ei var hann lukkunnar óska-barn,
því við andstreymi' og fátækt hann bjó;
þó gekk hann um æfinnar eyðihjarn
með svo einstakri karlmennsku-ró.

*

Hann þreytti sitt skeið eptir skugganna dal,
— á að skelfast var sál hans ei gjörn —
og hann hné, eins og kappi, sem hnígur í val,
eptir hraustlega framsókn og vörn.

Þótt grafar í húminu geymist hans bein,
þá gleymist hans minning ei þó:
því sjálfur hann bjó sér þann bautastein,
sem ei byrgist af mold eða snjó.

Kannist við kostina
kraptmikla, vandaða;
en bend' ei á brestina'
ins bliknaða, andaða.
Minnist hans velgjörða
í mannlífsins niðinum,
og látið hann hvílast,
und leiðinu, í friðinum.

†

## Björg Hannesdóttir.

Jeg þekkti' hana í æsku, — svo þýð og ljúf hún var;
en þolgæði' og staðfestu jafnframt hún bar;

og angurblíð rósemi' á enni hennar skein,
en augun lýstu viðkvæmni', og sálin var svo hrein.

En þeir voru svo fáir, sem þekktu hennar sál,
sem þekktu hennar helgasta' og innsta leyndar-mál.
Þó broshýr hún væri, og æskufríð og ung,
þá ef til vill fannst henni lífsreynslan þung.

Hún var orðin vegmóð, þó leiðin væri ei löng,
því leiðin var með köflum svo brött og svo ströng;
það særði hana harmur, það beygði hana böl,
svo brá hennar var döpur, og kinnin hennar föl.

En heimurinn fékk aldrei að sjá hennar sár,
né sá hann hana fella hin brennheitu tár;
því sambland af þreki og viðkvæmni hún var,
sem veröldin aldrei nein kennsli á bar.

Hún hafði meiri gáfur, en almennt á sér stað,
og unni mennt og listum — þó fáir vissu það.
Og trú var hún og vinföst, sú trygglyndasta mey,
en tælandi heimsglaumnum sinnti hún ei.

Hún var má ske skáldmær, þó ekki bæri á,

og ef til vill var menntunin hennar hjartans þrá;
en þeir voru svo fáir, sem þekktu hennar sál,
sem þekktu' hennar helgasta' og innsta leyndarmál.

Nú hvílir hún lífvana á líkkistunnar-fjöl,
á leiðinu smáblómin grænka og verða föl;
en önd hennar bústað á engla-heimnum í,
þars aldrei sjást harma né breytinganna ský.

---

## Til vinar míns.

Flý þú nú gjálfur og glaum,
og gakk út í skóginn til mín;
og vakna' af þeim vonleysis draum,
sem veldur, að lífsþráin dvín.

Kveð þú nú turna og torg,
og töfrandi dansmeyja fjöld;
þær beinlínis búa þér sorg,
því brjóst þeirra eru svo köld.

Hjá öl-vinum undu ei meir

við uppgerðar vináttu-hjal;
en komdu út hingað, og heyr
hljóminn í bjarkanna sal.

Í skóginum finnurðu frið;
hann faðminn sinn breiðir þér mót.
Hér brosa þér vorblómin við,
sem vaxa við meiðarins rót.

Tær er hér lækur og lind, —
ljósgeislar dansa þeim á —
þangað fer héri og hind
í hitanum svölun að fá.

Yndæl er fjólanna fjöld,
og fögur hin skógauðga strönd,
þá röðullinn kyssir um kvöld
kjarrviðar iðgræna rönd.

Og náttgalinn syngur hér söng, —
sæt eru' og yndæl hans hljóð —
þeim verður ei vornóttin löng,
sem vaka og heyra hans ljóð.

Við skulum leiðast í lund,
þars lækurinn rennur svo tær,
þá hálfmáninn glampar á grund,
og golan í laufinu hlær.

Þá skógálfar koma á kreik,
og kveikja sín rafurmagnsljós;
— þeir leita hjá aski og eik
að einhverri fyrirtaks rós.

Jeg sögu þar segja þér skal,
og syngja þér dálítið ljóð
um bjarkir og blómanna val,
og b ö r n i n mín fríð og svo góð.

Svo flý þú nú gjálfur og glaum,
og gakk út í skóginn til mín;
og gef þeim ei lengur neinn gaum,
sem geta' ekki litið til þín.

## Sumarkvöld.

Röðullinn er nú runninn,

það rökkvar í bjarkanna geim;
en máninn skýzt upp úr skógi,
og skimar um Vesturheim.

Logn er á vík og vogi,
í vatninu speglar sig strönd;
en máninn skýzt upp úr skógi,
og skyggnist um vesturlönd.

Náttgalinn kvakar klökkur
í kjarrvið yfir frá;
í fjárbjöllum glymur og glamrar
þeim grænu runnum hjá.

Í eikinni ugla húkir,
og ötul til veiðar býst,
hún starir á huglítinn héra,
sem hræddur um runnann skýzt.

Það bærist ei blað á kvisti,
svo blítt er nú og rótt;
en vindaský er í vestri. —
Jeg veit, að það hvessir skjótt.

---

Í kvöld er mér kyrrð í huga, —
jeg kvíði ei neinni þraut —
en ef til vill hvessir þar einnig,
áður en nótt fer á braut.

## Í Nýja Íslandi.

Jeg set mig á blómgaðan bakkann
við „brúsandi“ Winnipeg-sjó;
á öldurnar ýmist jeg horfi,
eða hinn laufgaða skóg.

Frá runnunum raddir jeg heyri,
úr rjóðrunum fjárbjöllu-óm.
Við ströndina bárurnar brotna,
og belja með drynjandi róm.

Og hvervetna hvyrflast upp reykur
hvítlitu bæjunum frá.
Og engi og akurlöndin
eru hér fögur að sjá.

Og léttan hlátur jeg heyri,

og hugljúft æsku-tal,
því börnin að blómum sér leika
í bjarkanna hvelfdum sal.

Jeg hugsa til eldgamla Íslands,
svo ósköp langt norður í sjó,
þar sem jeg eittsinn í æsku
ánægður lék mér og hló.

Og hér finnst mér frjálslegt að búa;
hér finn jeg hið íslenzka mál;
hér glepur mann glaumurinn ekki,
né ginnir neitt veraldar-tál.

---

## Frænka mín í skóginum.

Hún frænka mín var frjáls og ung,
er fyrst jeg hana leit:
og ei fannst henni æfin þung,
né æsku tárin heit.
Svo létt var hún og lipur þá,
sem lítill fugl á grein;
og flestum þótti' hún fríð að sjá,

því fögur voru augun blá;
í vexti var hún bein.

Kát var hún og ljúf í lund,
og lék sér opt og hló:
og óglöð sást hún enga stund,
en eitt var skritið þó:
að bezt hún lék, og sætast söng
í svölum skógar-geim,
og varla kvaðst hún verða svöng,
þó væri hún þar um dægur löng,
og hyrfi ekki heim.

Jeg man svo vel, hún mælti það,
— og margur að því hló --
að eiga vildi hún veru-stað,
þars væri af björkum nóg;
„því þar er fögur fugla-raust,
og frelsi“, sagði hún,
„og fyrir veðrum vígi traust;
en veglegt laufið sérhvert haust
er hulins ritað rún“.

Og frænku mína fyrst jeg sá

und fríðri hemloks-grein;
og undarlegt mér þótti þá,
að þarna sat hún ein.
En sumarið leið út og inn,
og allt af sat hún þar;
og loks jeg hennar kyssti kinn,
og kvaddi hnugginn hinsta sinn.
Og enn hjá eik hún var.

En nú sést hvorki blóm né ber,
þars barna framdi hún leik;
og hemloks-björkin höggin er,
hálf-visin og bleik.
Og frænka mín, sem forðum hló,
er farin ógna leið
í einhvern dimman eyði-skóg,
og á þar búna grafar-þró
und marg-greinuðum meið.

## Gömlu mennirnir.

Þeir koma frá vosbúð og „volki",
og veðrum á „mannlífsins sjó",

og kaldir sér orna við eldinn
í ellinnar þunglyndis-ró;
þeim ungu á bátana benda,
og bjóða þeim öll sín föng,
og vilja, að þeir velbúnir séu;
— þeir vita, að mannlífsins sjóferð er ströng.

Þeir eru svo lotnir og lúnir,
og lundin er orðin stirð;
þeir hirða' ei um glensið og gaman,
því gleðin er löngu kyrrð.
Þeim finnst ekki lífið neinn leikur,
því liðið þeir hafa svo margt,
í háskann og raunirnar ratað,
og reynt það, að mannlífsins erfiði' er hart.

Svo lofum þeim, lúnum, að hvílast,
og látum þá sofna í ró;
því svefn-þurfar eru þeir orðnir
af erfiði' og vökum á sjó.
Og ónáðum ekki þá gömlu,
því eptir dálitla stund

þeir setjast í svarta nökkvann,
og sigla brott fölir að ókunnri grund.

## Ungu mennirn r.

Á leiksviði æskunnar léttfættir dansa þeir,
gortandi' af gáskanum,
og gæta' ei að háskanum;
í hégóma-skrautinu, glitrandi, glansa þeir.
Við taktinn og tízkuna
tengja þeir vizkuna.
Lögmáls-raust tímans með „tra-la-la“ anza þeir,
og hendast fram hoppandi,
hringsnúast skoppandi,
og aldrei — unz valsinn er endaður — stanza þeir.

Flangsinu, glensinu og flónskunni hæla þeir;
þykjast svo þróttugir,
þolgóðir, slóttugir;
um alls konar smámuni ákafir stæla þeir;
en kverið þeir kunna' ekki,
og kirkjunni unna' ekki.

Af sérhverju mótdrægu skjálfandi skæla þeir,
svo daufir og duglausir,
svo dæmalaust huglausir.
Og svíki þá stúlkurnar, veina þeir — væla þeir!

## Járn-jórinn.

Hann brunar um grundir,
svo bergmálar undir,
og beljandi vekur hann hvin,
sem ef himininn rjúfist,
og hamrarnir kljúfist
með hrynjandi, skelfandi dyn.

Hann skógana skekur,
og rádýrin rekur,
þá rennur hann fram sína slóð;
en háfjöllin stynja
og stórbjörgin drynja,
er stælir hann þrumunnar hljóð.

Um grand hann ei skeytir,

en glóðinni þeytir,
og grimmlega hvæsir hann þá.
Hann steingarða brýtur,
og stálböndin slítur,
ef stefnt honum þvílíkt er á.

Og hver er svo hraustur,
svo hugstór og traustur,
að hönd grípi faxið hans í,
er reyknum hann hvyrflar,
og rykinu þyrlar,
með rymjandi, drynjandi gný?

## Víkingasnekkjan.

Víkingasnekkjunni stýrt er frá strönd,
og sterklega knúin hver ár;
en stormurinn blæs í hið breiða segl,
svo braka við stokkar og rár;
og borð eru sköruð skjöldum tólf,
á skálmar þar blikar og sverð.
Og gildur og prúður er garpur hver,
sem greiðir hér snekkjunnar ferð.

Hann Andersen sterki er studdur geir,
og stendur þar siglunni hjá;
og sækonunglegur hann horfir til hafs,
með hetjunnar þrek-svip á brá.
En Gundersen heldur um hjálmunvöl,
og hvöss eru augun og snör;
elztur er hann af öllum um borð,
en ekki' er þó minnst hans fjör.

Þar standa þeir Fredrek og Símonsen,
við sína árina hvor;
og Oscar, Rasmus og Eríksen
fyrir' afl eru frægir og þor;
þeir, Johannes, Bent, hann Jens og Lars
hafa' jötnanna þrek og kjark;
þó kveður ei minnst að Christensen,
sem kærast er farmennsku hark.

Sem víkingar kveða þeir víkinga-bálk
við veðranna æðandi kast;
þó hrykti í borðum og rymji í rám,
samt róðurinn sækja þeir fast.
Þeir glotta við tönn, þegar holskeflan há
sig hefur við snekkjunnar borð,

því þeir eru' að halda í vestur-veg,
til að vinna sér frækleiksins orð.

Já, þeir eru' að halda í vestur-veg,
til að vinna þar feðrunum hrós,
ekki með róstum og ráni og styr,
— sem rekur burt menntunar-ljós —
heldur með dirfsku — á drafnarslóð —
og dugnaði' og karlmennsku-ró;
þeir ætla að sýna, hve sams konar fley
hafi siglt fyrrum Atlanzkan sjó.

* * *

Og víkingasnekkjan er haldin í haf,
og hraustlega knúin hver ár;
en stormurinn blæs í hið breiða segl,
svo braka við stokkar og rár.
Og víkingar kveða sinn víkingabálk
við veðranna beljandi raust;
þó hafið sé mikið, og holskeflan grett
er hugrekki kappanna traust.

---

*

## Vídalín á alþingi.

Við Þingvallakirkjuna þyrping stóð
af þreklegum mönnum, með ólgandi blóð,
og skrautbúnum fljóðum; — og skírt mátti sjá,
að skrælingjar voru' ei á alþingi þá.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Vídalín alþingi á“.

Öll stórmenni landsins þar stóðu í sveit,
og stoltlega kringum sig hver þeirra leit;
og dómendur pískruðu dæmalaust hljótt:
„Í dag talar Vídalín eitthvað ljótt“.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Biskupinn byrjar nú skjótt“.

Og biskup í kirkjuna greiðlega gekk;
— en geigur stóð mörgum af þeim rekk —
með augnaráð snarlegt og yfirlit bjart,
að altarinu hann skundaði hart.
En klukkan í portinu hringdi hátt,

og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Í dag segir meistarinn margt“.

Kirkjan af fólki var þéttskipuð þá,
en þar var ei lögmanninn Odd að sjá;
þó er það mælt, að hann sent hafi svein,
að segja sér ræðunnar innihalds-grein.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Hann kemur við mannanna mein“.

Sú stund kom, að biskup í stólinn sté,
á stóryrðum var þá ei lengur hlé;
sem árstraumur málið af munni hans rann,
og menn sáu' að logi úr augunum brann.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Hver talar hvellara' en hann?“

Hann talaði' um svik og réttar-rán,
um ranga dóma og þess kyns smán;
hann lýsti andskota' og áraþjóð,
og ógurlegri vítis-glóð.

En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Ei brestur biskupinn móð“.

Og svo varð mál hans magnað og hart,
að menn á bekkjunum héldust vart;
en biskup bað svörðinn að svelgja þá,
ef sætunum þeir viki frá.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Hlusti þér orð hans á“.

Margur var þar, sem á vörina beit,
og varð það af munni: „Hans orð eru heit“.
Þar voru klerkar, sem kváðust fá nóg;
og köldum hrolli um alla sló.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Klerkum hann kinnroða bjó“.

Til lögmanns hljóp sveinninn, þá úti var allt,
og upp úr sér las hann hátt og snjallt
ræðuna alla, — hann ekkert var flón —

en Oddur kvað: „Mikinn kjapt hefur Jón!“
Og klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Mælskur er meistari Jón!“

Rjóður var biskup, þá ræðunni lauk,
og rennandi svitann af enninu strauk;
og göfuglegur með glaða brá,
hann gekk með hraða kirkjunni frá.
En klukkan í portinu hringdi hátt,
og heyrðist kalla við sérhvern slátt:
„Vídalín alþingi á“.

## Daniel Peyton.

Á sterka jarp sinn sté hann snart,
og strauk af enninu svita-dögg;
en neggið í brjóstinu barðist hart,
svo barmurinn reis við hvert þess högg.

Hans unga blóð í æðum svall,
og ógna hvöss var brún á hal,

því hann sá í fjarska, að flóðið skall
með ferlegum gný yfir Conemaugh-dal.

Hann fákinn sló sporum, er brunaði' á braut,
sem bardaga-hestur á vígatíð.
Og sérhvert í gegnum þorp hann þaut,
og þeysti' yfir engjar, og túnin fríð.

Sem víkingur gamall hann æddi' yfir allt,
þó ei væri' hann klæddur í fágað stál;
og hvervetna hrópaði' 'ann hátt og snjallt,
— svo hæðirnar endursungu hans mál.

Hann brúkaði' enga orða-gnótt;
en allir í þorpunum heyrðu 'hans raust:
„Flýið, ó, flýið til fjallanna skjótt,
og forði þér lífinu tafarlaust!"

En beljandi vatns-straumur byltist fram þá,
sem björgunum rótföstu veitti ei grið,
og þrjátíu fóta var hrönnin há,
er hugdjarfur Peyton þreytti við.

Undan Jarpur sem elding fló,
— og aldrei sást hestur betur fær —
við hraða straumsins 'ann hafði' ei þó,
sem hræðandi allt af færðist nær.

Hrönnin kom loks, og með heipt 'hún skall
á hal, og jó, sem fast um braust;
en hátt yfir vatns-gnýinn heyrðist kall:
„Til hæðanna flýi þér tafarlaust!"

Og hvínandi flóðröstin, froðug og há,
með feigð í broddi, þá þreif með sér;
og enn heyrðist kallað kólgunni frá:
„Til klettanna, hæðanna flýi þér!"

En löngu síðar í litlum dal
fannst líkami Peytons Jarpi hjá;
enn virtist lifandi eldfjör í hal,
og enn var hann fornhetjulegur að sjá.

Ei fæddist mannvinur meiri, en hann,
né maður, sem traustara hjarta bar,

sem djarflegar barðist, sem betur vann,
og búinn heitari kærleika var.

## Morðið.

Blóð, blóð, blóð!
Það beljaði' í lækjum á storð.
Blóð, blóð, blóð!
þeir börðust — í hug þeim var morð.

Hana dreymdi það aptur og aptur,
alla þá löngu nótt;
en hún hrökk upp á milli, og hrópaði' og grét:
„æ hjálpið! -- Mig dreymdi svo ljótt!“

Heipt, heipt, heipt!
Hatrið í brjósti þeim svall.
Heipt, heipt, heipt,
Úr holundum blóðslían vall.
Í svefninum sá hún það glöggt,
að sveinninn, sem henni var kær,

barðist sem hetja við fjandmenn fimm;
en feigðar-stundin var nær.

Níð, níð, níð!
— Nóttin var köld og dimm —
Níð, níð, níð!
Þeir níddust þar á honum fimm.
Þeir slógu hann sár við sár;
— hún sá það svo makalaust skýrt —;
svo skiptu þeir hjartanu' í helminga tvo;
en heiptar-verk það varð þeim dýrt.

„Morð, morð, morð!"
Mælti' 'hún. — Af svefni hún hrökk.
„Morð, morð, morð!"
mælti' hún. — Á fætur hún stökk.
Í dögun hún dreif sig á stað;
í dalnum hún líkið fann;
hún kannaði vel hverja einustu und,
og örendan kysti 'hún hann.

Hefnd, hefnd, hefnd!
Hatrið í brjósti' hennar svall.
Hefnd, hefnd, hefnd

á huglausum níðingum skall.
Hún sótti þar sérhvern heim,
— svannans var lundin grimm —
hún stakk þá í gegn með stórum hníf, —
hún stakk þá þar alla fimm.

## Sjómanna-söngur.

(Úr ritinu *„Stríðið í Algeirs“* eða *„bragð á móti bragði“*.)

Og þá var rok á reginsjó,
en Rúfus kunni að stýra.
Vér æptum allir: „hipp“ og „hó!“
er héldum vér frá Sýra.

Í Sýra æ jeg sælu naut,
með svanna yndis-fríðum;
þar blíðu-atlot opt jeg hlaut,
og ástarkossa tíðum.

Og þá var rok á reginsjó, o. s. frv.

Í Hermópolis hýra mey
jeg hinnsta sinni kyssti;

húu sagði: „farðu frá mér ei“,
og fast mér að sér þrýsti.

Og þá var rok á reginsjó, o. s. frv.

Jeg fór um borð með fullan kút;
— mér fannst ei vert að spara —
en meyjan veifði vasaklút,
og vildi með mér fara.

Og þá var rok á reginsjó,
en Rúfus kunni að stýra.
Vér æptum allir: „hipp“ og „hó!“
er héldum vér frá Sýra.

## Vort litla skólahús.

Vort litla skólahús!
Vort litla skólahús!
Vér langa tíð í brjóstum þína minning geymum fús,
því innan þinna veggja vér unað gátum bezt,
og elsku, sem er sönn og hrein, vér á þér höfum fest.

Og hvernig sem allt fer,
og árin breyta sér,
aldrei, aldrei vér gleyma skulum þér!

Vort skólalíf er bjart,
Vort skólanám er þarft;
að skerpa næmi, minni og fjör, það kallast ekki hart.
Og þó oss veiti erfitt um ofurlitla stund,
þá erum vér ei sein á ný að hressa vora lund.
Vort æsku-skeið er létt,
vor æsku-braut er slétt.
Áfram, áfram þá slóð, sem liggur rétt!

## Unnustu-ljóð.

I.

Lengi jeg leitaði að þér,
— jeg leitaði að þér um nótt —
og hvergi sást ljósið í þorpinu þar,
en þögult var allt og hljótt.
Það eina, sem heyrði' eg, var hjartað í mér, —
jeg heyrði það barðist svo ótt.

Já, lengi jeg leitaði að þér,
og loksins jeg húsið þitt fann;
jeg settist við gluggann — en sá ekkert ljós --
og svitinn af enni mér rann.
Í huga mér kom þá, að hrífa þig burt,
því hjartað af ást til þín brann.

Lengi i leiðslu þar sat eg,
ef leiðslu eg kalla það má.
Mig langaði' að klappa svo létt og hægt,
með lófanum, rúðuna á;
en jeg vildi' ekki, elskan mín, vekja þig,
því væran þú blundaðir þá.

Að vekja þig, vina mín kæra,
það var svo fjarri mér;
mig langaði armana' að leggja stillt
um ljómandi hálsinn á þér;
en jeg reit að eins nafnið mitt rúðuna á —
á rúðunni síðan það er.

II.

Jeg kvaddi þig, kæra, um nótt,
þá klukkan á skápnum sló eitt;

mér heyrðist þú hvísla svo hljótt:
„æ hjartað mitt farðu' ekki neitt“.

Sá koss, er þú kysstir mig þá,
mín kæra, var falslaus og hreinn.
Þú vildir jeg væri þér hjá,
þú vildir eg færi' ekki einn.

Sú skilnaðar-stund kom svo skjótt,
og skilnaður okkar var sár;
og þess vegna' um þögula nótt
þegjandi felldum við tár.

Svo þegar fór jeg þér frá,
fann jeg, að hjarta mitt brann;
við sjálfan mig sagði jeg þá:
„Þeim svanna til dauðans jeg ann“;

III.

Jeg sat hjá þér, vina, eitt sumarkvöld,
í sæludraum vonanna ungu;
mér fannst þá ei mannlífsins kjör vera köld,
né kveið jeg þá hörmunum þungu.

En þegar jeg kvaddi þig, fríða fljóð,
þá flugu burt vonirnar ungu;
og opt mér finnst síðan jeg missa móð,
er mæða mig harmarnir þungu.

## Hver er hún.

Hver er þessi hin þýða mær,
sem þarna fer með augun skær?
Hún er svo ung og blíð á brá,
og bros er hennar vörum á.
Hver er hún?

Svo göfuglega gengur hún,
sem gyðja fríð af Olymps-brún;
og hennar bærist brjóst með ró,
sem bára slétt á lygnum sjó.
Hver er hún?

Mjög vel henni fatið fer,
og fagurlega hún limuð er;
blóm í hendi ber hún smá.

Jeg brenn af elsku hana að sjá.
Hver er hún?

Á nokkur hennar sögu-safn?
æ, seg mér hennar ættar-nafn.
Ber hún tignar-heiti hátt?
Hefur hún völ á prinzum átt?
Hver er hún?

Tignar-heiti? — Himinn! Nei;
og hún á prinzum völ á ei.
Um ástir hennar enginn reit,
því alin er hún upp í sveit.
Það er hún!

---

## Sagan er sönn.

Þeir bárust á fleyum of brimþrunginn sjó,
að blómskreyttum löndum, þars auð var að fá;
þeir komu frá storð, þar sem kjarkurinn dó,
og kúgunar-okið á þjóðinni lá.
Við vitum það allir, að sagan er sönn.

Hjá fisk-auðgu vatni þeir byggðu sér ból,
og buguðu allt, sem að snörist þeim gegn.
þeir óbrigðult höfðu í skógunum skjól,
þá skörp voru frost, eða hitinn var megn.
En markverðast er það, að sagan er sönn.

Þeir reistu sér kirkjur að kristinna sið,
og kærleikans neisti þeim lifnaði hjá;
og „bræðralags-eining“ var mark þeirra' og mið;
við mannskap og drenglyndi studdust þeir þá.
En ei er að tvíla, að sagan er sönn.

Nú líðu fram stundir. — En lánið er valt.
Þeir loks gjörðust þreyttir á stöðugri ró;
og þá hófust deilur, og þess konar allt;
og þá stigu margir á annara skó.
Eg vitna til „Framfara“, að sagan er sönn.

Þeir dreifðust um landið, frá hafi til hafs,
sem hjörð, er sér tvístrar um beitilönd stór.
Og drjúgur var hver, sem gat dregið til stafs;
þeir dönsuðu, léku, og þömbuðu bjór.
Í „Leifi“ finnst gjörla, að sagan er sönn.

Og þá komust bókmenntafélög á föt,
sem féllu af sjálfu sér jafn skjótt um koll;
þá myndaðist skríls-mál, og skringilegt blót,
og skyldmenni reyndust þá miðlungi holl.
Eg vitna til „Heimskringlu“, að sagan er sönn.

Og tundrandi gaus þá upp trúvillu-bál,
sem tryllti svo margan af kirkjunnar-braut;
og þá risu deilur um menntunar-mál;
og meiðandi hnútum hver strákurinn skaut.
Eg vitna til „Lögbergs“, að sagan er sönn.

Og þá skeðu tryggðrof, og bindindis-brot,
og blaðstjóra-rýgur, og safnaðaþras;
þá heyrðist pískrað um peningaþrot,
um pílagríms-hrakning og giptinga-flas.
En heimurinn veit það, að sagan er sönn.

## Voðalegt eitur í víninu bjó.

Gleðin var mikil, og glaumurinn stór,
því gildi vér héldum, og tókum oss bjór.

En kátur var Bakkus — í kampinn 'ann hló.
Um silfur og gull ekki sinntum vér þá,
því sælir vér vorum, og glaðir á brá.
En voðalegt eitur í víninu bjó.

Vér hugsuðum ekkert um kúgun og kvöl,
og kváðum þá lítið um mannanna böl.
Og kátur var Bakkus, í kampinn 'ann hló.
Vér vorum svo frjálsir, og fylltustum móð;
vér fundum, að í oss var konunga blóð.
En voðalegt eitur í víninu bjó.

Vínið vér drukkum, og drukkum það ótt;
það dró af oss smám saman skilning og þrótt.
En kátur var Bakkus, í kampinn 'ann hló.
Að endingu misstum vér alveg vort þrek;
og urðum í framan eins svartir og blek,
því voðalegt eitur í víninu bjó.

Vér sofnuðum loksins, en sváfum ei rótt,
og seldum upp bjórnum, — oss dreymdi margt ljótt.
En kátur var Bakkus — í kampinn 'ann hló.
Og samvizkan vakti' oss, og hirti oss hart;

vér höfðum ei viðþol — það kvaldi' oss svo margt,
því voðalegt eitur í víninu bjó.

## Ó, Ísafold!

Bregð þínum langa dauða-dúr,
ó, Ísafold!
og drag þig myrkurs-hjúpi úr,
ó, Ísafold!
og sýn þú hafir sonu átt,
er sýndu dugnað, þor og mátt,
sem frelsis-merkið hófu hátt,
ó, Ísafold, ó, Ísafold!

Sýndu þinna sona verk,
ó, Ísafold!
þó sért nú veik, þá varstu sterk,
ó, Ísafold!
Og sýn þinn brand og breiðan skjöld,
sem borið gaztu fyrr á öld;
og birt þín söngs- og sögu-spjöld,
ó, Ísafold, ó, Isafold!

Þú nýta drengi enn þá átt,
ó, Ísafold!
er eigi brestur þor né mátt,
ó, Ísafold!
þó nokkrir beri hatt sinn hátt,
sem heimskir eru, og kunna fátt,
og berja á sinum bræðrum þrátt.
ó, Ísafold, ó, Ísafold!

Vér, sem höfum flutt þér frá,
ó, Ísafold!
í fjarlæg lönd, of dimman sjá,
ó, Ísafold!
þitt æ skulum mæla mál,
sem miklu skærra er, en stál,
það vald skal hafa á vorri sál,
ó, Ìsafold, ó, Ísafold!

---

## Gestur Oddleifsson,

*(fyrrum póstur Ný-Íslands).*

Hann Gestur er bæði gildur og knár,
og glaður og frjáls í lund.

Hann tekur því vel, þó þú takir í hann,
og tuskist svo við hann um stund;
og gerirðu það, muntu finna fljótt,
að fimur og sterkur hann er;
og meira hefirðu' en meðal-afl,
ef minni hluta 'hann ber.

Vertu með honum á vetrardag,
þá veður er kalt og hart,
og keyrðu með honum klárana hans,
þér kólnar né leiðist þá vart.
Hann segir þér einhvern sögu-stúf,
og syngur þér gaman-ljóð:
hann hoppar og dansar og hefur þig upp;
í hreifing hann setur þitt blóð.

Vertu svo með honum vordegi á,
þá vegurinn trauðla er fær,
er fjórðunga tíu á bakinu' 'ann ber;
hann ber þá — það segi' eg — og hlær.
Og fjörutíu mílur hann ferðast á dag —
svo fornhetjulegur að sjá —
já, fjörugur ertu og frískur vel,
ef fylgist þú með honum þá.

Gestur er bæði gildur og knár,
og gamansamur hann er;
hann lætur þig hlæja, og lífgar þig upp,
þó liggi' eitthvað illa á þér.
Hann elskar hið fjöruga, frjálsa líf,
og falslausa vina-mál,
því hjartað hans er svo hreint og trútt,
og hyggin og skörp hans sál.

Ötull er Gestur Oddleifsson;
og aldrei þekkti jeg mann,
á aldri hans, sem eins sig stóð
í öllu og öllu, sem hann.
Í honum jeg finn það fjör og þrek,
sem fyrrum í köppunum var.
Vér eigum ei vænni né vaskari dreng, —
því veglyndur er hann og snar.

---

## Til frænku minnar í skóginum.

Ó, frænka mín, ó, frænka mín,
sem fagra elskar skógar-byggð!

Mínn hugur sveimar heim til þín
af heitri tryggð.

Mín harpa í kvöld skal helga þér
sitt hjartans mál — sitt klökka ljóð;
og flytja ósk til þín frá mér,
ó, frænka góð!

Og minnar hörpu hjartans mál
ei heyra nokkur annar skal:
því lund þín er svo laus við tál,
— og ljúft þitt tal.

Eg lít til baka á liðna tíð,
er lékum við á Marklands-strönd;
jeg man, hve þú varst mild og þýð,
og mjúk þín hönd.

Eg man við gengum hlið við hlið,
og hlupum margan langan sprett;
um fagra skóginn fórum við
svo frjáls og létt.

Og hörpu minnar hjartans-ljóð

er horfinnar ástar bergmál skært,
sem mér er löngum lífs á slóð
svo ljúft og kært.

Ó, frænka mín, ó, frænka mín,
svo frjáls og blíð og laus við tál!
Mín harpa flytur heim til þín
mitt hjartans mál.

---

## Til Jóhannesar Sigurðssonar.

*(Kaupmanns að Hnausum í N.-Ísl.)*

Stálvöðvum búinn, með sterka sál,
þú stendur í tímans-róti;
og mannlífsins ís þig ei bugar né bál,
þú breytir ei stefnu, þó leiðin sé hál,
og óveðrin æði þér móti.

Þú fer ekki geyst um hið flughála svið,
en fastar og þéttar þú stígur;
þér hyggindin kenndu að hafa það mið:

að hrasa' ei um ráð fram, ei stjaldra þó við.
— „Hann sigrar, er síðastur hnígur“.

Þá þrek-starf skal vinna, og þrautin er köld,
ei þarf þig til framsóknar hvetja;
og borið ef hefðirðu brand og skjöld
í byltingahríðum á fyrri öld,
þá hefðir þú kallast hetja.

Því kjark ertu gæddur og karlmennsku-ró,
og kappanna fylgdirðu dæmi:
er suður þú stefndir til Chicagó,
að sjá þau stórvirki', er menningin bjó,
og skerpa þinn skilning og næmi.

Þú þekkingu hefur þeim höfundum frá,
sem háfleygir eru og réttir.
Og trúar-þref fjöldans þig trufla ei má,
því teig þú fékkst drjúgan Mími hjá,
þó augað að veði' ekki settir.

Og stálvöðvum búinn þú stendur fast,
og stríðir í tímans róti.

Þig bugar ei mannlífsins bylja-kast;
og brynjan er sterk, og sverðið hvasst,
sem beitirðu böl-tröllum móti.

## Til nemendanna við Geysis-skóla

*(sumarið 1892).*

Eg þakka' ykkur, börnin mín beztu,
þá blíðu, er sýnduð þið mér;
og þökk fyrir gjöfina góðu,
— svo glansandi fögur hún er.

Já, þökk fyrir gjöfina góðu,
til grafar hún fylgja mér skal;
og lengi mig lætur hún muna
hinn litla skóla-sal.

Og hringurinn, hreinn og fagur,
harla vel minnir mig á:
að verk-hringur minn eigi' að vera
viðlíka fagur að sjá.

Og hringurinn, hreinn og fagur,
sem heiðursgjöf er svo fríð,
mér kenni að stunda starf mitt,
og stunda það vel mína tíð.

Svo traustur tryggða-pantur
skal tengja mig við ykkur æ,
hvar sem jeg fer um foldu,
og ferðast um breiðan sæ.

Eg þakka' ykkur, börnin mín beztu,
þá blíðu, er sýnduð þið mér.
Eg óska', að þið lifið þar lengi,
sem lukkan og farsældin er.

## Til Solveigar Sveinsdóttur.

Leyf mér í ljóði þér færa
lifandi vináttu-mál,
og hamingju óskir þér inna,
af einlægum huga og sál.

Því upp ertu götuna' að ganga, —
sem gjarnan vill þreyta vorn fót.
Og bernskuna' að baki þú hefur,
en brosandi' er framtíðin mót.

Og menntunarferilinn ferðu,
þó færðin sé dæmalaust þung;
en kjarkurinn, kappið og þolið,
knýr þig fram, þó þú sért ung.

„Áfram“ og „hærra og hærra“,
hyggst jeg í augum þér sjá.
Eg veit það er mark þitt og miðið:
menningar-perlunni' að ná.

Eg veit þú fer „hærra og hærra“,
unz hitinn og lífsþráin dvín.
Og takmarkið loksins þú lítur,
og loks verður perlan svo þín.

Eg dáist að dugnaði þínum,
og djörfung í sérhverri þraut.

Eg óska þér yndis og gleði
á æfinnar komandi braut.

## Brot úr bréfi til Kristins Stefánssonar.

*„There is a pleasure in poetic pains,*
*which only poets know.“* — **Cowper.**

Eg gladdist, og lyptist til hálfs upp í himininn,
er hafði jeg stúdérað ljóðið þitt, Kristinn minn.
Eg las það — og las það — og las það á ný,
eins lengi og þróttur hélzt augunum í;
jeg kvað það, og söng það upp aptur og aptur,
unz enginn var lengur í tungunni kraptur.
Og svo fannst mér hugmyndin heit og sterk,
að hoppaði' eg í mig fótaverk!

* * *

Bíddu nú við! Jeg skal segja þér sögu,
en samt verður hún nú ekki löng, -
því alltaf er jeg í orða þröng —
jeg efni litið hef í bögu.
Orsök liggur að þessu þó:

því þakin er jörðin öll með snjó,
og ekkert sést, er andan hefur;
allt í dauðalogni sefur;
visin er rós, og bleik er björk
á breytingalausri eyðimörk.
Mannlífið er hér svo makalaust kyrrt,
af menningarleysis brodd-vír girt.
Hér eru að sönnu djarfir drengir,
sem duga vel, þá neyð að þrengir,
og láta ei allt fyrir brjósti brenna,
ef berserks-hrygg þeir eiga að spenna —
og er til þols og kjarksins kemur,
köppum mörgum þeir standa fremur.
En færri hafa þeir fjör í sál,
þó flestir elski gamla Njál,
og fróðir sé í fornum sögum,
og „fræknir nokkuð í veiðilögum“;
þeir gestrisnir eru að gömlum sið,
og ganga fáir stokka við.

Mér líður þrautalaust — þetta, svona —
og þreytist aldrei á að vona.
Í skólanum kenni eg dag eptir dag;
og dálítið vinn eg mér í hag,

sem í því er fólgið, að rita og reikna,
og rúnaletur á spjöld að teikna.
Ótal dætur og unga sonu
eignazt hef jeg — en ei með konu.
Þér blöskrar slíka byrði að sjá —
af börnunum á jeg tugi þrjá!

* * *

Jeg fékk um daginn feikna mikið bréf,
en fari það nú kolað, ef jeg hef
það skrifað, hvaða viku-dag það var;
en „valt er minnið“, eins og stendur þar.
En bréf það var samt, þrátt fyrir allt og allt,
og undarlega hljómaði það snjallt
í eyrum mínum, þegar það jeg las;
og þrautalaust jeg drukkið hefði glas
af porter, eða einhvers konar bjór,
ef átt jeg hefði slíkt á þeirri tíð. —
Jeg hefði sjálfsagt þambað, eins og Þór,
og þursum öllum boðið út í stríð.
En hér fæst hvorki öl né alcohol,
og enginn maður veit, hvað þýðir „skoal“.
Sem sagt, þá fékk jeg bréf; og býsna langt
það borið hafði verið dag og nótt.

Og sjálfsagt væri syndsamlegt og rangt,
að segja, að innihald þess væri ljótt.
Heldur var það fyndið, frjálslegt, gott,
sem fært það hefðu í letur Twain og Scott.
En svo jeg yfir efnið fari fljótt,
og fleygi burtu leiðri orðagnótt,
sem jeg hata meir, en all-flest annað, —
enda' er það af málsnillingum bannað —
þá var bréfið góðu skráð í skyni
af skáldinu okkar — Jóni Runólfssyni.

* * *

Senn koma jólin með gleði og glaum,
með gjafir og ljósin og vínanna-straum;
þá sezt þú hjá Braga, með brennivíns-glas,
og beinlínis lendir í kvæða-þras.
Og vinir þér bjóða til veizlu heim,
svo, vitaskuld, býðurðu aptur þeim;
væri þá gaman að vera hjá,
og vísurnar ykkar hlusta á.

*

## Til rangeygra ritdómara.

*„Fools are my theme, let satire be my song“.* — **Byron.**

Þér sjáið bækling — setjið þegar rétt,
með sökudólginn bundinn grindur við;
á vogskál yðar setning hver er sett,
og sérhvert orð er slitið lið frá lið;
og dauft það finnst og létt, sem drafnar-hjóm,
því dramb er lóðið yðar metum á.
Og fyrirlitning ritar rangan dóm,
en rökum hrundið er með þjósti frá;
það dómsorð hrífur, — hrokafullt og kalt —
því hrís er penninn, blekið yðar salt.

Þér þvoið hendur, þerrið sveitta brá,
og þykist hafa unnið skyldu-verk;
en veslingar, sem vit hjá yður fá,
viðurkenna, að yðar hönd sé sterk,
og syngja því í sama tón og þér,
unz sálir þeirra verða að báli og ís;
margur þeirra bleksletttu þó ber,

á baki, eptir yðar snarpa hrís.
En sleppum því; — þér agið yðar börn,
svo ei um of þau verði brekagjörn.

Eg veit, að yðar sjónarhæð er há,
og harla margt er fyrir yður bert.
En margt er og, sem yðar augu ei sjá,
sem ef til vill — þó smátt — er mikilsvert.
En meinið er: þér metið það ei neins,
sem myndast fyrir utan yðar svið;
þér segið: „Þetta' er ekki til"; og eins
að orði kveður yðar fylgi-lið.
— Þér, optimistar, málið sjálfir svart,
en segið allt í heiminum sé bjart.

Segið mér: hví rífið þér hvert rit,
sem rithöfundar ungir hafa skráð?
Eða er þá ei í öðru vit,
en yðar verkum? — Hitt skal vera smáð(?)
Eða' óttist þér, að æskumannsins sál
aukist þrek, ef hnekki ei hún fær,
og komi síðar fram með meira mál,
og má ske stígi á yðar eigin tær?

Eða veldur bræði-blandið gys,
sem brennur allt til mannlegs helvítis?

## Til J. R.

Með vasa tóma þú vékst á braut, —
þig vísinda studdi kraptur —
en sællegur með sigur-skraut,
þú sentist hingað aptur.

Þú reiðst á burt með rofinn skjöld,
en riddaralega skaptur;
með líf og sál og ljóða-fjöld
þú læddist hingað aptur.

## Edda.

Edda, mín aldna skrudda,
illa fer þú á hyllu,
— skólasveins í skála —

skinandi' í bókalínu.
Fast hefir Skrímnis-fóstra,
fríðar um þínar síður,
greipum hörðum gripið;
gneisti mun senn þig kreista.

## Kveð þú mér kvæði.

Kveð þú mér kvæði
í kyrrð og í næði,
um ættjarðar-svæði,
sem ann jeg svo heitt.
Huga þinn hertu,
og hörpuna snertu,
sorgfull þó sértu
og sálin þín þreytt

## Í stormi.

Þýtur í runnum og brakar í björkunum;
sem blindhríð er fölnaða laufið á mörkunum;

í skýbólstra-myndum það fer yfir foldina,
og flytur í loptinu sandinn og moldina.

## Á Betlehems-slétturnar bjarmanum sló.

Á Betlehems-slétturnar bjarmanum sló,
og bjart var um heiðar og dali og skóg,
því ljómandi englarnir, lausir við hryggð,
á ljósvængjum svifu' 'oná mannanna byggð.

Og sólfögur stjarna skein austrinu í,
og ei byrgði ljóma' hennar sorti né ský;
en vitringum þremur hún vísaði leið
um veglausar merkur og öræfin breið.

Of dálitlum kofa sú stjarna nam stað;
og stórglaðir vitringar urðu við það,
því ungbarn í jötunni fundu þeir þar;
en þetta barn máttugur konungur var.

## „Dag skal að kvöldi lofa“.

Alþýðan hóf 'ann svo hátt,
unz hálfguði' að orðinn hann var,
hún lofaði' hans megin og mátt,
og makalaust traust til hans bar.

Og vænt henni virtist og rétt,
og viturt hvert orð hans og svar;
en honum fannst lífið svo létt,
því lýðurinn þrautir hans bar.

En hann datt af þeim „dýrðlinga-stól“;
og dapurt og þungt var það mál,
sem afar-reið alþýðan gól,
yfir hans kvíðandi sál.

Nú brennandi svíða' honum sár,
og sorgin og harmur hann sker,
og fjölda mörg fellir hann tár,
því fólk honum mót snúið er.

## Ritað í bolla til J. G.

Barmafullur er bollinn
af beztu óskum frá mér,
sem móttöku verðurðu að veita,
ef viltu þær stöðvist hjá þér.

## Engar öfgar.

Víst er hann maður merkur,
— það megið þið vita stúlkur —
því nú er hann kennari, klerkur,
kraptaskáld og túlkur.

Eitt sinn var hann ungur,
ör í lund og frískur;
en nú þykir hann þungur,
og það, sem verst er — nískur.

## Ný-sveinninn.

Examen jeg æðsta tek
í Algebra og Bótanik;
og ef mig ekki brestur blek,
þá bý eg nýja Grammatík.

Eðlisfræði er yndisleg,
og eitthvert mitt hið bezta fag.
Í literature lifi jeg,
og les hann Hómer nótt og dag.

## Með Heinrich Heine í skóginum.

I.

Og útlagi er jeg þá orðinn,
eins og þú, Heine minn kær.
Nú bý jeg hjá björkunum grænum,
borgum og kauptúnum fjær.

Um goðgá þeir sögðu mig sekan,

og sögðu jeg hefði' ekki lært,
að vera maður með mönnum; —
og meira til sakar var fært.

Og allt, er jeg sagði og söng um,
sögðu þeir væri níð
um elskuvert fólk, — sem þó aldrei
átti sér rúm eða tíð.

En jeg kraup ekki Karli' inum heimska,
og kyssti' ei hans göfugu tær;
og því er jeg útlagi orðinn,
eins og þú, Heine minn kær.

II.

Jeg elska þá Goethe og Uhland,
og ætíð jeg Schillers skal minnast;
en vegna þín, viðkvæmi Heine,
vildi jeg þýzkunni kynnast.

Fé af mér Gyðingar græddu,
og gjörðu mig allslausan heima;

en vegna þín, vinur minn Heine,
vil jeg þeim rangindum gleyma.

Mér farnaðist illa með Frökkum,
fyrrum, þá jeg var drengur;
en af því þú undir þér hjá þeim,
erfi jeg það ekki lengur.

Vetrarnótt marga jeg vakti
við það, að nema þá tungu,
i óði sem léztu lýsa
lífsins kjörunum þungu.

Og hvað er það bezt, sem þú býður,
— bezt til að veita út tárum?
Ja, — réttu mér Reisebilder,
og „raunir frá fyrri árum“.

III.

Sit jeg hér í svölum lundi,
— sit og les þig skáldið blíða.
Reisebilder, Rómanceró
rifja' upp hjá mér harma stríða.

Harmar þínir hafa verið
hörmum mínum næsta líkir. —
Það, sem þér lá þyngst á hjarta,
í þúsund brjóstum enn þá ríkir.

— Enn er þjóðarandinn þungur,
þröngsýnt enn er fólkið víða;
málefnið er minnst í varið;
manninn sjálfan þarf að níða.

Sit jeg hér í svölum lundi,
— sit og les um harm og trega
en á kvisti krákur úfinn
krunkar hátt og ömurlega.

IV.

Jeg þeyst hefi með þér um Þjóðverjaland,
— en þung hefur sorg á mér legið —
að glettunum í þér við góðmennin þar
jeg gat þó ei annað en hlegið.

Fallega kvaddir þú föður Rín,
í faðmi sér vildi' 'ann þér hossa;

og kunnuglega þú kvaðst og djarft
við keisarann Barbarossa.

En hefði jeg borið fram önnur eins orð
við íslenzka prúðmennið Neró,
þá hefði víst kærleikur kunningja míns
ja — kólnað hreint ofan í zeró.

Mér þótti þér skjátlast, jeg segi satt,
er svannann í Hamborg þú kysstir,
því fyrir þann kossinn þú félst á kné,
og frægð þína hálfa þú misstir.

V.

Skip minna vona er skriðið hjá,
á skerjum við Gröf mun það lenda;
en „*schnedderedeng*“, og „*dideldumdei*“,
og dansinn — er bráðum á enda.

---

## Frá æskuárunum.

1.

Hárprúða hafmey,
hafsbotni á!

Þú situr og syngur,
með sorgir á brá.

Hárprúða hafmey!
Jeg heyri þinn óð:
til unnustans yrkirðu
angurblíð ljóð.

En unnustann aldrei
þú aptur munt sjá,
því stundir hans styttu þeir
ströndinni á.

Æst ber mig aldan
um ævinnar sjó,
og fundið jeg fæ ekki
frið eða ró.

Hárprúða hafmey!
Heyrðu mín orð:
æ flyt þú mig á fjarlæga,
friðsæla storð.

2.

Glatt lát gjalla
gígju snjalla
ljóðin löng —
„Lilju-söng" —
þreytandi um þrautir,
þyrnum-stráðar brautir,
sollin sár,
sorg og tár.

Syng þú, svanni,
sætt í ranni,
ástar-óð,
unaðs-ljóð;
hörpu láttu hljóma,
hryggð skal sett í dróma,
burt með böl,
bitra kvöl.

Fljóðið fríða,
frjálsa, blíða,
tali um tryggð,

trú og dyggð;
ástar-sögur segi,
sveinar meðan þegi;
hetjan há
hlusti á.

Frelsi, friður,
fagur kliður
lífgar lýð,
lægir stríð.
Dimmt er nú í dölum,
dýrð í björtum sölum.
Gígjan góð
gleðji þjóð.

3.

Nú syngja og leika, í sölunum björtu,
sveinar og meyjar með ástfangin hjörtu.
Inndæla meyja!
ó, ástkæra meyja!
Dreymir þig um dans?

Áðan gekk halur í höllina björtu,

við hlið 'ans var fljóðið með lokkana svörtu,
Inndæla meyja!
ó, ástkæra meyja!
Hyggur þú á hefnd?

4.

Ó, ást! þú ert tál,
og orsakar harm;
þú bjóst í mér bál,
sem brendi minn hvarm.

5.

Máninn, um miðnættið, bjartur
mænir á blómgaða grund,
og glitrandi geislum 'ann hellir
á grátþrungið sofandi sprund.

Vindurinn leikur sér léttur
við laufið og vorblómin hrein;
og náttgalinn sorgarljóð semur
sedrus á ilmandi grein.

Dökkhærður, sólfagur svanni

*

sefur með grátþrútna brá;
en tárin í tunglsljósi björtu
tindra hér blómunum á.

6.

Golan lék um grænan lund,
er gafstu mínu hjarta frið;
og inndæl var sú aptan stund,
er einn jeg gekk við þína hlið.

En veðrið hvein í visnum trjám,
er varð jeg þér að hverfa frá;
og máninn leit af himni hám,
og horfði á mína fölu brá.

7.

Þú bjarta mey,
með blíða lund!
ó, gleym mér ei
á gleði-stund!

Þá harma-jel
þig hristir kalt,

æ, min þá vel
þú minnast skalt!

Þá grýtta slóð
þú ganga átt,
mín sorgarljóð
þú syngja mátt.

Er gröfin þröng
mín geymir bein,
þá flyt þú söng
um fallinn svein.

8.

Ó, berið mig, of háar hafsins öldur,
heim til landsins, þar sem jeg var fæddur,
þar sem jeg var aldrei, aldrei mæddur,
og æskan var mér traustur hlífðar-skjöldur.

Ó, berið mig í Fljótsdalinn minn fríða,
þars fyrr jeg lék um sléttar klettabungur,
þegar jeg var ánægður og ungur,
og ekki vissi, hvað það var að stríða.

Ó, berið mig í bæinn minn í dalnum,
— í bernsku hlýddi' eg þar á vöggusönginn —
ó, berið mig inn löngu, lágu göngin,
og leggið mig á rúm í innsta salnum.

## Álfarnir.

(Þýtt úr ensku.)

Þeir klifruðu' upp himinn á regnbogans-rönd,
og renndu sér niður með vinda-ský;
með hlátri þeir svifu' yfir sjó og lönd,
og sungu og dönsuðu skóginum í.

Hver álfur sér flughröðu fiðrildi stal,
og feigð því hét, ef það ynni spjöll;
svo héldu þeir glaðir um hól og dal,
og heimsóttu kot hvert og gylfa-höll.

Til dauðlegra manna þeir hjöluðu hljótt,
og hugar-ró blésu í sérhvern barm;

sofandi börnum þeir rugguðu rótt,
og ráku frá syrgendum böl þeirra' og harm.

## Fjörurnar við Dee.

(Eptir Charles Kingsley.)

„Ó, Marja, farðu og komdu með kýrnar heim,
og komdu með kýrnar heim,
og komdu með kýrnar heim
handan um fjörur og vað!“
En ólmt var veðrið inn' á stöðvum þeim;
og ein hún fór af stað.

Flóðið læddist upp við svalan sand,
fór um og yfir þann sand,
og hringinn í kring þann sand,
svo langt, sem sjónin nær;
en þokan kom af hafi, og huldi land, —
og heim kom aldrei mær.

„Æ, er það fiskur, hálmur eða hár, —
í lokkum gullið hár,

liðinnar meyjar hár - ,
sem flýtur netum hjá?
Aldrei svo á silung sólin gljá'r
þeim sendnu flúðum á".

Þeir fluttu líkið yfir löður kalt —
löður ólmt og kalt,
svo gráðugt, grimmt og kalt —
til grafar sævi hjá;
samt heyrist þeim hún kalla' enn kýrnar snjalt
þeim sendnu fjörum frá.

---

## Brot úr kvæði.

*(Eptir Elizabeth Akers Allen.)*

Ó, tími, til baka' aptur brunaðu skjótt!
Að barni mig gjörðu rétt að eins í nótt.
Ó, móðir! kom aptur frá ómlausri strönd;
og að þínu brjósti mér þrýsti þín hönd.
Æ kyss þú af enni mér áhyggju-ör,
og ellinnar strjúk burt hin silfruðu för,

Yfir mér vaktu — mig verndi þín mund, —
og vagga mér, móðir, í friðsælan blund.

Streym aptur til baka, ó, stundanna flóð!
Af striti og tárum jeg orðin er móð,
— af tárum, og striti, sem tilgangslaust er —
æ tak það, en veit aptur æskuna mér!
Af hverfleikans ryki jeg þjáð er og þreytt,
— og þrek minnar sálar er horfið og eytt —
já, þreytt af að yrkja æ annara grund.
Æ vagga mér, móðir, í værasta blund!

Hið fláráða' í heiminum mætt hefir mig.
Ó, móðir góð! hjarta mitt kallar á þig.
Opt hafa blómgrösin blómgazt, svo smá,
og bliknað, síðan þitt andlit jeg sá;
þó þrái' eg — því mér er svo þungt og svo mótt —
að þú sért nú hjá mér rétt að eins í nótt.
Æ komdu fram þögulu auðninni úr,
og vagga mér, móðir, í værasta dúr!

Á hjarta mitt aldregi, aldregi skein
ást, eins og þín, móðir, — falslaus og hrein —

þín sál var svo viðkvæm, svo trygg og svo trú,
— já, tállaus og staðföst, mín móðir, varst þú.
Og enginn, sem móðir, fær bugað það böl,
sem beygir vor hjörtu, og eykur þeim kvöl.
Nú sígur á augu mér svefnhöfgvi vær;
æ vagga mér, vagga mér, móðir mín kær!

## Söngmeyjar-slagur.

*(Eptir Thomas Chatterton.)*

Syng mér dapurt sorgarlag,
og söltum tárum grát með mér;
haltu' ei framar helgan dag,
og hirtu' ei um að skemmta þér.
Minn elskhugi' er nár!
hann liggur lágt
und laufguðum pilvið.

Hans hár var svart, sem hríðar-nótt,
hans hörund bjart, sem sumar-mjöll,
sem roði morguns rjóð hans kinn.
En rúm hans er í dauðans höll.

Því nú er hann nár,
og liggur lágt
und laufguðum pílvið.

Sem þrastar-raust hans rómur var;
hann rétt og lipurt dansinn steig;
og hátt og snjalt hans harpa kvað.
En hann til jarðar fölur hneig!
Og nú er hann nár,
og liggur lágt
und laufguðum pílvið.

Heyrirðu' ei, að hrafnar þar,
í holti, saman vængjum slá,
og feigðar-uglan flytur söng
þeim fölva svip, er reikar hjá?
Minn elskhugi' er nár;
hann liggur lágt
und laufguðum pílvið.

Hvítur er máninn himni á,
en hvítari' er unnustans líkvoð köld —
hvítari miklu, en morgun lopt,

og miklu hvitari', en ský um kvöld.
Minn elskhugi' er nár;
hann liggur lágt
und laufguðum pílvið.

Hér á lága leiðið hans
jeg legg það blóm, sem fríðast er.
En enginn svæfir söknuð þann,
er sáran jeg í hjarta ber.
Minn elskhugi' er nár;
hann liggur lágt
und laufguðum pílvið.

Með beittum þyrni bú mér und,
og blæða lát úr hjarta mér,
því fjör og glaum jeg fyrirlít,
— og fallvalt líf mér byrði er.
Minn elskhugi' er nár;
hann liggur lágt
und laufguðum pílvið.



# Athugasemdir.

*Íslenzkur sögunarkarl í Vesturheimi.* „Kott vúdd, sör" (*Cut wood, sir*) = höggva við, herra. „Korð" (*Cord*), er viðarmál (128 teningsfet).

*Grímur frá Grund.* „Parry-sund„ (Parry-sound) er í fylkinu Ontario í Canada; þar var um tíma íslenzk byggð.

*Smaladrengurinn.* „Kýrklukkurnar". Í Ameríku — sérstaklega í skóglöndunum — eru stórar bjöllur festar um háls á forustukúm, svo að auðveldara sé að finna nautgripina, sem víða eru á beit inn í skógunum.

*Gröfin við veginn*, II. „Robin" (genus *motacilla*) er lítill fugl með rauða bringu.

*Til vinar míns.* „Skógálfar" (*Fairies of the Woods*) eru eldflugurnar stundum kallaðar.

*Víkingasnekkjan.* Sumarið 1893 sigldu tólf Norðmenn vestur yfir Atlantshafið á bát, sem smíðaður var eptir lagi hinna fornu víkingaskipa.

*Daniel Peyton* var mannvinurinn, sem fórst í Conemaugh-dals-flóðinu, í Pennsylvania í Bandaríkjunum, sumarið 1889. Þegar Peyton varð þess var, að flóðið kom ofan dalinn, tók hann hest sinn og reið, sem mest hann mátti, fram dalinn, og varaði fólkið í þorpunum við hættunni; komust því margir undan upp í hlíðarnar, og björguðu lífi sínu. En Peyton, og hestur hans, fórust í flóðinu.

*Gestur Oddleifsson* býr í Geysis-byggð í Nýja Íslandi. Hann er karlmenni mikið, og bezti drengur, og allra manna spaugsamastur. Hann var um tíma póstur milli Selkirk og Íslendingafljóts.

*Til frænku minnar í skóginum.* „Markland“ kölluðu menn nýlendu Íslendinga í Nýja Skotlandi (*Nova Scotia*). Margir halda, að Nýja Skotland hafi verið land það, er forn-Íslendingar nefndu Markland.

*Jóhannes Sigurðsson*, kaupmaður að Hnausum í Nýja Íslandi, er vel kunnur meðal Vestur-Íslendinga, fyrir atorku og staðfestu. Hann var einn af þeim fáu Íslendingum, sem sóttu heimssýninguna í Chicago sumarið 1893.

*Fjörurnar við Dee.* Charles Kingsley (1819—1875) enskt skáld.

*Brot úr kvæði.* Elízabeth Akers Allen (1832—) skáldkona í Bandaríkjunum.

*Söngmeyjar-slagur.* Thomas Chatterton (1752—1769), fátækur, enskur piltur. Þó hann væri að eins seytján ára gamall, þegar hann dó, var hann búinn að vinna sér frægt nafn sem skáld.

---

# Yfirlit
## yfir ljóðmælin.

